# NOKKUR

# SMÁKVÆÐI OG VÍSUR,

UNDIR ÝMSUM LÖGUM,

EPTIR

M. GRÍMSSON.

---

I.



---

REYKJAVÍK, 1855.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS HJÁ
E. PRENTARA ÞÓRÐARSYNI.

## *Andlátsorð Þorkels mána.*

(Landnámabók, 1. p. 9. kap. Khöfn. 1843).

---

Lagið: Sol som från mig flÿtt.

Engi meini mjer,
manni dauða nær,
að leita liðs hjá þjer,
ljóssins faðir kær!
Þig minn andi undrazt tíðum hefur,
og á þína miskun nú sig gefur.

Ljós, sem lýstir mjer
lífsins vegum á,
dauðlegt auga er
æðra neitt ei sá,
þínar á haug minn þyrpist geisla - raðir,
þjer jeg dey — jeg dey þjer ljóssins faðir!

Hafi' eg heimi í,
herra, styggðan þig,

treysti' eg þó samt því,
þú að náðir mig;
öndu minni verndan þína vel jeg,
von—góður þjer sálu mína fel jeg.

---

## *Þórólfur mostrarskegg.*

(Landnámabók, 2. p. 12. kap. Khöfn, 1843).

---

Lagið: Sol som från mig flÿtt.

Hjálpa heilög mjer
hamra-vættur þú,
fjalls sem fagra hjer
í fylsnum átt þjer bú;
hulda vættur, hlíf mjer alla daga,
hulda vættur, tak mig látinn, Saga!

---

## *Bára blá.*

Lagið: Danmark Held.

Bára blá
að bjargi stígur
og bjargi undir deyr.
Bára blá!
drynjandi' að sjer Dröfn þig sýgur,
í djúpið væra brátt þú hnígur,
:,: í Drafnar skaut og deyr. :,:

Bára blá!
þín andvörp undir
andi tekur minn.
Bára blá!
allar þínar æfi-stundir
eru þínar dauða-stundir —
:,: við bjarg er bani þinn. :,:

## *Heimfýsi úr skóla.*

Lagið: Till Tings! Till Tings!

Á stað, á stað og upp í sveit,
þar unun býr;
kyrsetan oss því allasaman
leiða lýr.

Til ferða býður Hulda hal,
þá hækkar sól,
og gullbjart lifnar grasa—val
um grund og hól.

## *Reiðvísa.*

Lagið: Nu han sväfvade kring.

Knýjum hestana hart,
meðan gatan er greið,
svo að náttstaðar náum vjer til,
meðan veðrið er bjart,
áður lopts alla leið
líður sólin í náttmarar hyl.

## *Hulda.*

Lagið: Kom du lilla flicka.

Heyrðu, kom þú Hulda,
úr hólnum þínum græna,
sýndu gesti blómin þínu býli á.
Dveldu hjá mjer, Hulda,
á hólnum þínum væna,
fræddu gest, sem fræðast vill þjer feginn hjá.

Sitjum bæði saman
sólar-roða fáguð,
fjöll og hólar Huldu brosa okkur við.
Sitjum bæði saman
sveipuð vina-blómum;
gesti þínum góða Hulda greiddu lið.

Hulda, góða Hulda,
heyr þú mjer,
viltu ei binda ást við þann, sem unnir þjer?
Hulda, bezta Hulda,
heyr þú mjer,
viltu ei binda ást við þann, sem unnir þjer?

## *Haustvísur.*

Lagið: Klokken i Taarnet klinger.

Lóan í flokkum flýgur,
fjarlægist sumar ból —
fyrri og fyrri hnígur
fögur að djúpi sól.

Sumarsins sæli ylur
svalauðga storma flýr,
blásnu í fjalli bylur
bálvindur eigi hlýr.

Sumar blóm höfði halla
hnípin í fjalla klauf,
fölnuð til jarðar falla
fríðustu bjarkar lauf.

Haustið ber fljótt að höndum,
hraðfara tíminn er —
tímans í straumi stöndum,
sterklega sem oss ber!

Gleðji því hver þann getur,
gefi þeim styrk er má,
hausti því víkur vetur
von bráðar fallinn á.

Vetrar þá hjúpur hvítur
hvervetna sveipar land,
og augað úti' ei lítur
unaðar nema grand.

Saman og inni una
einhuga skulum vjer,
minnast þess eins og muna,
margt hvað til gleði ber.

Hvað sem oss ber að höndum,
hugfallast látum ei —
tímans í straumi stöndum,
en stríðum á móti ei!

Harmi þá stangast ströngum,
stríðanda máttinn þver,
í leik og sætum söngum
sorginni drekkjum vjer.

---

## *Umbreytingin.*

---

Lagið: Stille Nat.

Gleði öll,
unaðar stund,
óðum flýr,
skuggi kær
mörgum sinnum, þá svífur á braut,
svölun þæga vor andi hlaut,
:,: í því hann færðist fjær. :,:

Huggun þá
huganum því
heimur tjer:
fallvalt hvað
komur og fer, það er fjær oss og nær,
fyrnist þetta, en bráðlega grær
:,: rós í rósar stað. :,:

Er því ei
unaðar spell
lokið leik
ljúfum sjá,
sama og sama því sjónina lýr.

svölun enga það huganum býr,
:,: er fer ei til nje frá. :,:

Æ vill önd
annað og nýtt,
áfram ber
gjörvallt líf;
stendur ei neitt í stað, sem að á
stunda heimur, og skiptist þar á
:,: sorg og sæla ríf. :,:

Framför öll,
fagnaðar stoð,
frelsis sól,
menntun sæl —
breytingu' eflir og elur með sjer,
eilíf framför því breytingin er —
:,: hopar villa' á hæl. :,:

Sannleik þann
sjáum þá vjer
sjerhvað eitt
birta, að

breyting ein er í heiminum hjer,
er hlýðir allt, og þá líka vjer —
:,: stendur það eitt í stað. :,:

---

## *Öræfajökull.*

Lagið: Dannmark Held.

Vættur væn
við himni háum
hreykir glæjum ís'.
Vættur væn,
unnum móti brosir bláum
bólsturmekki hulin gráum,
:,: bjarg að brjósti rís. :,:

Tignar-mynd
við mána lítur,
máni' í skýjum hlær.
Tignar-mynd
þoku dimma bólstra brýtur,
í bláum svella hami þýtur,
:,: foss þar fellur tær. :,:

---

## *Heimfýsi frá Kaupmanna-höfn.*

(Undir nafni Fröken G. M. Thorsteinson).

---

Lagið: O, hvor langt skjönnere.

Ó, hvað jeg uni mjer Íslands í dölum
betur en hýrast hjer Hafnar í sölum,
algræn hlíð
er svo fríð
og aldinn foss!
blómin þau ánga öll, já öll,
um víðan völl.
Já, blómin ánga öll
og skreyta víðan völl, já völl,
blóm ánga öll
við hinn aldna foss.

Heim vil jeg halda brátt, heim þegar vorar,
sjá hve í allri átt af fuglum morar,
hrund og hal,
hlíða val,
hó, hó, og glaum.

En hvað jeg hlakka til, já til,
við hamra gil,
já hvað jeg hlakka til
við hamra sitja gil, já gil,
jeg hlakka til
að heyra vatna straum.

Seg þú mjer Sjálands unn, svifin af djúpi,
er þjer mín eyja kunn í algrænum hjúpi,
höll og grund,
halur sprund,
og hvannstóð frítt?
Já, ef þú þekktir það, já það,
í þessum stað —
Já, ef þú þekktir það
í þessum góða stað, já stað,
þú þekktir það,
þú dveldir hjer lítt.

---

## *Vísa.*

Lagið: Mildt over Söen lufter.

Á meðan upp til fjalla
átt' eg ból,
hám jökul hulinn skalla
hafð' eg skjól,
nú má jeg norpa hjer;
að jeg fari
fyr en vari
:,:úr frosti' og kulda trú mín er:,:.

---

## *„Góður hver genginn“.*

Lagið: Þó að margur upp og aptur.

Kveðið var í áttum öllum —
unaðs-rödd í bláum fjöllum
gall við hátt svo heyra mátti
helgra vætta gleði-söng;
þá var engin sorg í sölum,
sungu fuglar upp í dölum,
bljes þá undir út' á miði
öldu-raddir hvala-þröng.

Þá var leikið — langar nætur
liðu fljótt, en dala-sætur
skemmtu sjer við fossinn fríða,
fram til þess er dagur skein.
Hlóu þá við blómin bláu
brosi röðuls-tinda sáu
gulli fegri geislum roðna
gnæfa fram á akur-rein.

---

## *Nýársvísur.*

Lagið: Björn och Frithiof suto båda.

Nótt er liðin, ljómar dagur,
líður yfir tinda fagur
nýárs-röðull; rístu' á fætur,
röðli maður fagna þeim!
Árið forna' úr garði gengið,
geturðu' ekki aptur fengið;
öðru bjóða ári lætur
alda-faðir ljúfur heim.

Fagna ári, fagna maður,
fagni hver, og líti glaður
fram á hulin ár og æfi:
    aldrei manni kvíða ber.
Tíma hafinn allan yfir
alda-faðir góður lifir;
vittu barn hann veit hvað hæfir,
    veit hann og hvað hagar þjer.

„Vaki sveinar!“ tíminn talar
til vor allra. Þúngum dvala
nýárs-sól af hvarmi hrindir,
    hæfir ei að sofa nú.
„Vaki sveinar!“ vættur fjalla
vorrar fóstur-jarðar kalla.
„Skefldar flýi skugga myndir!
    skuggabróðir, heyrir þú?“

---

## *Áfangastaður.*

Lagið: Kom Bröðre, lad os vanke.

Hjer vil um hríð jeg æja;
því hjer er orðið skammt til bæja,
og fríðust blóma-blæja
um breiða liggur grund og hlíð,
en ljettur lækjar-niður
og listugasti fugla-kliður
í einu eyrað viður
hjer eiga' um fegurð sína stríð,
og fjöllin fríð
með faldinn hinn sí-glæja
sem ár og síð
mót sunnu brosi hlæja:
allt býður lúnum hvíld um hríð.
. . . . . . allt býður hvíld um hríð.

Fátt er það ferða-manni
má flýta betur heim að ranni,
en vita' að valinn svanni,
með von og kvíða heima er;
ef jódyn hún þá heyrir
í húsum varla lengur eyrir;

sá hestinn sem að keyrir
hún sinn því ætlar muni ver,
þá fram hjá fer,
hún frjettir hvort að granni
ei segi sjer
af sínum kæra manni.
„Nú er hann“, seg'r hann, „nærri hjer“.
. . . . . nú er hann nærri hjer.

Hann fer, en fljóðið blíða
fegin verður skamms að bíða,
heim sjer hún heilan ríða
í huganum sinn kæra mann.
Allt er þá undir búið
og öllu' í fagnað bezta snúið,
úr húsum angur flúið
eins og að spánýtt væri rann. —
Hvíld væna' eg vann
á velli þessum fríða,
sem æ jeg ann:
á stuttu mun nú líða.
„Heim þarna loksins þeysir hann.“
. . . . . heim þarna þeysir hann.

---

## *Samsætisvísur.*

Lagið: Vipper springe.

Í samsæti
örfast kæti
ást og bræðra-lag,
allir einu geði
efla sæla gleði,
fer þá flest í hag.

Freka teiga
fríðra veiga
fyrðar taka sjer,
kristalls-glösum klíngja,
kveða, spjalla, sýngja,
burt öll fordild fer.

Vín og svanni
vænst í ranni
veita unun má;

„sá þeim eigi sinnir“
sjera Marteinn innir,
„finnst mjer alveg frá“.[1]

Því mun sæma
þegar tæma
þeirra beggja skál:
víns og vífa lengi
vaxi fagurt gengi,
lífgi líf og sál!

---

[1]) Wer nicht liebt Wein, Weib und Gesang
der bleibt ein Narr, sein Leben lang.
Dr. M. Lúter.

## *Bæn.*

Lagið: Mellem Gravenes Höie.

Lof sje lávarði hæða,
lífið sem veitti mjer,
eg svo alls konar gæða
að fengi notið hjer,
unz heim við skilinn himnum á
hann jeg um eilífð tigna má.

Veit mjer víslega neyta
veittra gæða', eins og ber,
og þess allsendis leita,
er, drottinn, líki þjer!
Allt svo mitt líf til lofs þjer sje,
lát mjer þinn helga styrk í tje!

Leið mig, lávarður hái,
lífisins um hættu-stig,
og gef ætíð jeg sjái
í öllu, herra, þig!
Þinn fingur veginn vísi mjer,
verður þá allt til dýrðar þjer!

## *Fyrir skál hins lærða skóla í Reykjavik.*

23. dag desemberm. 1849.

---

Lagið: Hvað er svo glatt, sem góðra vina fundur.

Þó unað þann, sem oss þjer veittuð, bræður!
að aldrei fullu launa meigum vjer,
þá veit samt hann, sem öllu ætíð ræður,
að eigi vilja-leysi til þess ber;
því meiri aldrei allir gleði nutum,
en yðar kæra flokki þágum af,
og yðar návist nú þá aptur hlutum,
sem nýjan huga vorum unað gaf.

Því þegar vorsól vetrar klaka-böndum
með varma þægum leysir bláan straum,
Þá fljúga glaðir fuglar vængjum þöndum
í flokkum samt með unaðs kæran glaum.
Og eins er þegar gleði-sólin svífur
á sælum unaðs-himni ljett og blítt,
að eldri bæði' og yngri gleðin hrífur,
og eflir fjör og kærleiks þelið hlýtt.

En einmitt það, sem eflir fjör og glæðir
þær ástir, sem að fjelags vekja líf,
það sem að af sjer framkvæmd alla fæðir,
og flestum verður rauna bót og hlíf,
það einmitt skortir öðrum mörgum fremur,
þá eyju voru byggja' og byggðu' um hríð,
þess meira vert er vísir þess að kemur
frá vorrar aldar kærum æsku-lýð.

Það er því ósk vor allra bræður góðir,
að eins og fyrri gleði nutum vjer,
svo megi lengi Ísland yðar móðir
þess unaðs njóta', er henni veitið þjer.
Af yðar rammleik eflist fjör og gleði,
sem alls er bræðra-fjelags líf og sál!
Hins lærða skóla ljúfu svo með geði
vjer leyfum oss að drekka fyrsta skál.



